# Verkalýðsblaðið

10.tbl 10.árg | 27.nóvember 1981 | Verð kr 5.oo

# SULTAR-SAMNINGAR

"Samningar tókust í nótt milli ASÍ og VSÍ" sagði þulurinn í morgunútvarpi, dag einn fyrir skömmu. "Ooh erðanú" var muldrað vonleysislega á vinnustöðum um land allt þann sama morgunn.

Fólk er vondauft, sem sést m.a. á því hve fáir mæta á fundi, og óánægt sem sést m.a. á því hve margir greiddu atkvæði gegn samkomulaginu.

Tvö atriði hafa verið talin samkomulagi þessu til tekna: Í fyrsta lagi að samningarnir séu afturvirkir, þ.e. gildi ekki frá undirskriftardegi heldur frá því síðustu samningar féllu úr gildi. En í sameiginlegri bókun samningsaðila segir að ákvæði þetta sé ekki fordæmi, heldur sé það vegna þess að verið var að framlengja fyrrverandi samninga, með smá dúsu, fram í miðjan maí n.k.
Í öðru lagi hafi kaup hinna lægst launuðu verið hækkað mest. En sú hækkun kemur bónusvinnufólki ekki til góða. Hafi fólk áður náð með auknu vinnuálagi að koma grunnlaunum sínum og bónus samanlagt upp í núverandi lágmarkslaun, þá fær það engan bónus að auki nú fyrir sömu vinnu. Það er því raunverulega verið að auka það framleiðslumagn sem skila skal áður en bónus fæst.

**Hvers vegna tókust samningar svo óvænt?**

Staðan var sú að bókagerðarmenn voru í verkfalli sem vitað var að viðsemjendur þeirra þyldu ekki lengi. Því var viðbúið að þeir næðu fram tiltölulega góðum samningum og ASÍ gæti ekki sætt sig við öllu minna á eftir. Til þess að fá fordæmi sem heppilegt væri fyrir atvinnurekendur þurfti auðvitað að semja fyrst við þá sem linastir voru - ASÍ.

Hvaða liðleskjur eru það sem stjórna verkalýðshreyfingunni?

Það eru fyrst og fremst pótintátar stjórnmálaflokkanna, Alþýðubandalagsins, Alþýðuflokksins og Sjálfstæðisflokksins. Það er athyglisvert að félag bókagerðarmanna og félag bankamanna sem eru lítt flokksstýrð, hafa skorið sig nokkuð úr.

Styrkleikahlutföllin milli verkalýðsstéttarinnar og borgarastéttarinnar eru að breytast borgarastéttinni æ meira í hag. Alþýðubandalagið, sem veitt hefur verkalýðshreyfingunni pólitíska leiðsögn, er gjörsamlega gengið ríkisvaldinu og þá um leið borgarastéttinni á hönd. Verkalýðsstéttina vantar pólitískt forystuafl.

ÞAÐ FORYSTUAFL VERÐUR AÐ SKAPA!

-/ess



Þessi litli drengur er fórnarlamb fyrsta sósíalíska ríkisins sem sveigðist út á braut ríkiskapitalisma og útþenslustefnu. Hann býr í Afganistan þar sem Sovétherirnir eru að tryggja stríðshagsmuni sína undir yfirskini "alþjóðahyggju". Fyrir honum eru þau öfugmæli brynvarðar þyrlur, napalm og mannvíg. Risaveldin bæði hafast svipað að víðar eða standa að baki álíka meðferðar á alþýðufólki - í Mið-Ameríku, Erítreu, Kampútseu og Jemen.

Það vekur athygli að íslensku stjórnmálaflokkarnir fjórir lyfta ekki fingri til hjálpar þessu fólki. Hér sjást loðnar yfirlýsingar, en fjársafnanir, heimboð fulltrúa þjóðfrelsisafla eða aðrar stuðningsaðgerðir sjást ekki. Hvers vegna? Og hvar er samvinna flokanna sem allir þykjast ekkert aumt mega sjá?

Kommúnistasamtökin og fyrirrennara þeirra safnað fé til S-Afríku, til Eritreu og til Indókína. Þau hafa boðið hingað fulltrúum frá Eritreu, frá S-Afríku, frá PLO og frá Póllandi. Af því mega þau vera stolt.

Getur þú ekki gert eitthvað fyrir þennan dreng og þjáningasystkini hans?

(mynd: Klassekampen) -agé




100 þúsund króna krafan gamla, telst nú um 6.300 nýkr.

# Styðjum bókagerðarmenn, bankamenn og sjómenn

Enn einu sinni eru bókagerðarmenn með baráttuglaðari launamönnum í kjarabaráttunni. Félag þeirra sýnir að það er þess virði að berjast uppréttur. Það sýnir ennfremur að samstillt lýðræðislegt og sjálfstætt stéttarfélag er grundvöllur fyrir sókn eða a.m.k. tilraun til sóknar.

Styðjum bókagerðarmenn með ályktunum, fjársöfnun eða á annan hátt. Við lýsum einnig yfir stuðningi við sjómenn sem beittir eru fyllsta órétti og bankamenn sem berjast fyrir leiðréttingu kjara sinna.

Stjórn Kommúnistasamtakanna.

# Púðurtunnan við Miðjarðarhaf

Menn velta fyrir sér möguleikanum á því að Pólland eða Mið-Austurlönd verði vettvangur átaka sem kveikja endanlega eina heimsstyrjöldina enn. Grein um Pólland er í blaðinu, annars staðar, hér verður fjallað lítillega um Mið-Austurlönd.



Sovésk flugskeyti í Líbýu.

### Þveröfug áhrif

Morðingjar Sadats eiga enga samúð kommúnista í okkar samtökum. Líklega eru flestir félagar samtakanna andvígir mörgu í Camp David-friðarsamningum Egypta og Ísraela. Reynslan hefur líka sýnt að yfirgangur ofstækismanna í Ísrael hefur síst minnkað í garð Palestínumanna, enda fremur auðvelt fyrir þá að fela sig og stefnu sína bak við hörð viðbrögð og hernaðaraðgerðir PLO, sem stimpluð eru sem hryðjuverkasamtök. En hvorki stefna Sadats gagnvart Ísraelum né gerræði hans gagnvart stjórnarandstöðu í Egyptalandi réttlæta launmorð. Það hefur þveröfug áhrif.

### Andstaðan fái að starfa.

Egypsk stjórnarandstaða er af mörgum toga, allt frá lýðræðissinnum með "vestrænar", borgaralegar hugmyndir til sovéthollra kommúnista og strangtrúarmanna, sem hylla hættulega ofstækismenn á borð við Ghaddafy Líbýuleiðtoga. Egypska stjórnin hefur ekki kunnað að leysa úr því hvernig stjórnmálaöfl skuli starfa. Ef stjórn Mubaraks tekst það ekki heldur, er víst að óróinn brýst fram að nýju. Þetta á reyndar við um flest arabaríkin.

### Zíonismi aðalhindrunin.

Þjóðrembingur ísraelskra zíonista (sem eru e.t.v. ekki meirihluti Gyðingaþjóðarinnar) og harðneskja þeirra í garð Palestínumanna útilokar sérhverja langtímalausn Palestínumálsins. Málamiðlun Saudi-Arabíu (og kannske Mubaraksstjórnarinnar)kann e.t.v. að ná meirihlutafylgi innan PLO - sem bráðabirgðalausn. PLO myndi þá viðurkenna Ísrael, en stofnsetja eigið ríki Palestínumanna. Það myndi lægja ófriðaröldur, en þær hyrfu ekki. Í þessu liggur því falinn ófriðarneisti, ekki síður en í innanlandsástandi Arabaríkjanna.

### Veitt í gruggugu vatni.

Bæði risaveldin hafa reynt að koma árum sínum vel fyrir borð í Mið-Austurlöndum. Sovétmenn hafa stutt PLO, sem hefur stundum launað fyrir með vondri afstöðu í alþjóðamálum, t.d. til innrásarinnar í Afganistan. Sovétmenn hafa líka gert sérsamninga við þjóðir eins og Sýrlendinga og Líbýumenn, flutt mun meira af vopnum til þeirra en þörf er fyrir stutt við valdaræningja (t.d. í S-Jemen) byggt herstöðvar (t.d. við Rauðahaf) og komið sér þannig vel fyrir í styrjaldarskyni, við líf æð Evrópu, til olíulinda Austurlanda. Bandaríkjamenn hafa aftur á móti tekið við af Sovétmönnum í Egyptalandi, veðjað á Jórdani og Saudi-Araba og stutt Ísraela (reyndar með æ fleiri skilyrðum). Síðustu árin hafa þeir líka aukið vígbúnað sinn, t.d. með nýjum herstöðvum (Sómalía, Azoreyjar) og samningum við Egypta o.fl. Atferli risaveldanna bendir síður en svo til friðar í þessum heimshluta.

Friðarvonirnar eru fólgnar í sjálfstæðisbaráttu 3.heimsríkjanna á svæðinu, í sigrum þjóðfrelsisafla og alþýðuhreyfingar hvers lands og í æ valtari innanlandsástandi í Sovét- og Bandaríkjunum.

-agé

*Landsfundur SHA:*

# Sumt nýtt – annað gamalt

Helgina 24. og 25. október héldu Samtök Herstöðvaandstæðinga landsfund sinn í Hveragerði.

Ýmis mál voru rædd og starfshópar störfuðu um starfsáætlun SHA næsta ár, friðarhreyfinguna í Evrópu og afstöðu SHA til hennar, um baráttuleiðir, menningar- og skipulagsmál.

### Miklar umræður um friðarhreyfinguna

Á þessari landsráðstefnu bar einna mest á umræðum um friðarhreyfinguna í Evrópu og hvernig herstöðvaandstæðingar gætu best tekið þátt í samfylkingum um baráttumál hennar og tengt þau sinni baráttu fyrir úrsögn Íslands úr Nato. Hafði Ólafur Ragnar Grímsson framsögu í starfshópnum. Kynnti hann fyrir mönnum stefnur og strauma sem gætti innan hreyfingarinnar í ýmsum löndum Evrópu. Lagði hann áherslu á fjölbreytileika þann sem þar kæmi fram. Friðarhreyfingin væri ekki samtök með föstu skipulagi, heldur væri hún hreyfing í mótun og hreyfingu. Mjög greindi menn á um endanleg markmið hreyfingarinnar, en þeir sameinuðust í öflugum aðgerðum gegn ýmsum einstökum þáttum vígbúnaðarkapphlaupsins fyrst og fremst tengdum kjarnorkuvígbúnaði í V-Evrópu. Hlutlægt séð taldi Ólafur hreyfingu þessa beinast gegn vígvél Bandaríkjamanna í Evrópu og kjarnorkuvopnakerfi Nato.' Hann benti samt á að í sumum löndum Evrópu hefur töluverður hluti friðarhreyfingarinnar jafnframt snúist gegn Sovétríkjunum og að almennt gerðu menn sér grein fyrir að vígbúnaðarkapphlaupið væri ekki þreytt af Bandaríkjunum einum saman.

### Íslendingar: Friðargæslumenn?

Athyglisverðri hugmynd var varpað fram í umræðunum um friðarhreyfinguna. Fólst hún í því að menn fóru að velta fyrir sér hvernig hugsanlegt væri að koma í veg fyrir að valdajafnvægið milli risaveldanna raskaðist um of Sovétríkjunum í hag við að Ísland gengi úr Nato. Datt þá sumum í hug að Íslendingar gætu sjálfir í samráði við alþjóðastofnanir tekið við umsjón njósnastöðvarinnar í Keflavík. Mundu Íslendingar þá stöðugt gefa upp upplýsingar um ferðir kafbáta um svæðið og þannig gera hvorum aðilanum fyrir sig örðugara um vik við að undirbúa stórárás á hinn. Kæmi til styrjaldarástands gætu Íslendingar lokað stöðinni til að komast hjá því að verða meðal skotmarka annars hvors risaveldisins. Í framhaldi af þessari hugmynd var bent á að hugsanlega væri hér kominn grundvöllur kröfu um að N-Atlantshaf, eða mestur hluti þess, yrði lýstur kjarnorkulaust svæði ásamt Norðurlöndum. Fylgjast mætti með því hvort það yrði virt af kjarnorkuveldunum í gegnum njósnastöðina í Keflavík. Í framhaldi af þessum hugmyndum, sem vissulega eru umræðu verðar, lögðu nokkrir einstaklingar fram tillögu um að herstöðvaandstæðingar tækju upp umræður um almannavarnir og haldin yrði ráðstefna um þær síðar í vetur. Því miður virtist áhugi flestra á ráðstefnunni vera heldur lítill á þessu mikilvæga máli. Sátu flestir hjá við atkvæðagreiðsluna um þessa tillögu sem endanlega var felld með 16 atkvæðum gegn 12. Aðalrök andstæðinga tillögunnar, sem flestir virtust vera í einhverjum tengslum við Fylkinguna, voru að herstöðvaandstæðingar hefðu margt annað mikilvægara til að ræða um!

### Krossgötur?

Þrátt fyrir nokkuð breytt viðhorf til baráttuaðferða herstöðvaandstæðinga í kjölfar friðarhreyfingarinnar var lögð á það mikil áhersla, í a.m.k. tveimur ályktunum frá ráðstefnunni, að höfuðmarkmið baráttu herstöðvaandstæðinga væru að mestu óbreytt, enda lögðu vissir einstaklingar mikla áherslu á að það kæmi skýrt fram. Hafi herstöðvaandstæðingar verið staddir á einhverjum krossgötum eins og haldið var fram í seinasta tbl. Verkalýðsblaðsins þá fóru þær krossgötur alveg fram hjá þorra ráðstefnugesta. Þó virtust menn almennt sammála um að hugsanleg baráttuaðferð væri að reyna að ná markmiðum sínum í áföngum og skylt væri að samfylkja um einstök málefni með öðrum samtökum, þó svo að ekki næði sú samfylking til allra markmiða SHA.

Allmiklar deilur komu upp um tíma á ráðstefnunni um það hversu langt herstöðvaandstæðingar ættu að ganga í andstöðu sinni við það risaveldi, sem ekki hefur herstöðvar á Íslandi, Sovétríkin, og hernaðarbandalag þess. Komu fram ýmsar algerlega andstæðar skoðanir. Var það álit sumra að öllum herstöðvaandstæðingum bæri að vera á móti öllum hernaðarbandalögum og öllum herstöðvum á erlendri grund en sumir úr röðum trotskyista virtust halda þeirri skoðun fram í fullri alvöru að Varsjárbandalagið og vígbúnaður Sovétmanna þjónaði framsýnu hlutverki í baráttu þjóða fyrir frelsi. Gekk þetta svo langt að einn ráðstefnugesta lýsti því yfir í hita umræðunnar að hann aðhylltist þá skoðun að það skipti máli hvaðan byssukúlur kæmu, það væri betra að láta skjóta sig með sovéskri kúlu en bandarískri.

framhald á síðu 3





Pershing II kjarnorkuflaugar Bandaríkjanna.....
.....og SS-22 kjarnorkuflaugar Sovétríkjanna.

# Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ari Trausti Guðmundsson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14
Opnunartími: Alla laugardaga kl. 11-15
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gíróreikn.: 12 200, Póstgíróstofan
Prentað í Offsetprent


*Leiðari:*

## Einu sinni voru það 6300 kr.

Það eru til eitthvað um 13 þús. fyrirtæki í landinu, bæði opinber og í einkaeign.

Félagsmenn VSÍ nálgast fimmta þúsundið. Það eru þeir sem lifa af vinnuafli tugþúsundanna sem ekki eru í opinberri þjónustu. Opinberir starfsmenn fá margir ekki heldur raunvirði vinnu sinnar á neinn hátt. Talið er að um 60% ísl. launamanna taki laun sem ná ekki 50% framfærslukostnaðar fyrir dagvinnu. Og þá ganga þingmenn, embættismenn, atvinnurekendur og margir verkalýðsforingjar fram fyrir skjaldborg yfirstéttarinnar og tilkynna að því miður sé lítið svigrúm fyrir kjarabætur. Þeir nota tölur um marklaus hugtök eins og þjóðartekjur og bókhaldstap fyrirtækja til að lakka yfir bullið. En þeir draga ekki í efa getu efnahagskerfisins til þess að vera yfirleitt til og ekki heldur þann framfærslueyri sem yfirstéttin skammtar sjálfri sér úr eigin bókhaldi. Menn geta auðvitað dundað sér við að finna sanngjarnar launakröfur, því þær eru til. Hitt er deginum ljósara að gróðakerfið er búið að spila botninn úr buxunum. Það verður að setja annað í þess stað. Sem dæmi um sanngjarnar kröfur má nefna kröfu minnihlutans á síðasta Verkamannasambandsþingi eða gömlu 100 þús. kr. kröfu ASÍ sem var seld fyrir bitlinga. Hún er nú jafnvirði 6300 kr. lágmarkslauna. Endanlegar kröfur samninganefnda stéttarsambandanna stóru verða miklu lægri en þessar. Lýðræði, fræðslu og stéttarvitund er nú þannig komið í verkalýðshreyfingunni að við öðru er ekki að búast og fæstir munu telja samningana samstöðu og baráttu virði. Þar bera svokallaðir verkalýðsflokkar þunga ábyrgð.

## Flokkar á hverfanda hveli

Flokkarnir fjórir missa tiltrú fólks. Yfir 30% spurðra reyndust óákveðnir í könnun DB á fylgi flokkanna. Þeir sjálfir eru að klofna, stirðnaðir eða hálfdauðir. Þessar vísbendingar um uppstokkun flokkakerfisins í landinu eru ekki ills viti og þær standa í nánum tengslum við efnahagserfiðleikana vegna arðránsfyrirkomulagsins. Ný og fersk stjórnmálastefna launafólks getur tekið við sem aðalafl stjórnmálabaráttunnar og náð fylgi úr öllum flokkum og utan flokka. Í þessu liggur vísir að félagshyggju- og verkalýðsflokki, sem getur myndast upp úr komandi hræringum. Kommúnistasamtökin vilja leggja sitt af mörkum.

## Gegn báðum risaveldunum

Kafbáturinn sovéski við Svíþjóðarströnd og fjárgjafir KGB til danskra friðarsamtaka staðfesta réttmæti áralangrar baráttu marx-leninista fyrir því að friðar- og réttindabaráttunni sé beint gegn báðum risaveldunum. Þessi afstaða vinnur nú á vegna æ augljósari staðreynda. Kommúnistasamtökin fagna því að Samtök herstöðvaandstæðinga krefjast þess nú í fyrsta sinn að SS20 flaugar Sovétmanna verði eyðilagðar og SHA vilja nú samvinnu við aðra aðila í friðarbaráttunni. Enn er þó langt í land með að ísl. friðarhreyfing snúi sér gegn Sovétríkjunum í þeim mæli sem þeim ber. Andóf gegn báðum risaveldunum er eina leiðin til að afla meirihlutafylgis við kröfur um að Ísland standi utan hernaðarbandalaga. Á ósigur bendir furðuleg vörn Fylkingarinnar fyrir vígbúnaði Sovétmanna, eins og hver önnur grafarraust. Og það kann að felast harmleikur í því að almannavarnir eru gleymdar á Íslandi í dag. Flokkarnir þegja og pólitískum blindingjum tókst að fella tillöguna um að Samtök herstöðvaandstæðinga tækju upp umræður um almannavarnir.

7.11. - agé.

# Frá ritnefnd

Ritnefnd blaðsins biður áskrifendur velvirðingar á því hve seint tókst að koma út september- og október blöðunum - sem reyndar urðu að einu blaði þegar til kom. Munaði þar mest um lokun prentsmiðju blaðsins og flutninga sem á henni hlutust. Mest af vélakostinum verður selt og blaðið gefið út með aðkeyptri vinnu að nokkru leyti.

Lokun prentsmiðjunnar, minni útgáfutíðni (úr 1/2 mán. í mánaðarblað), breytt greinarskrif og alger stöðnun í útbreiðslu Verkalýðsblaðsins eru allt staðreyndir sem lesendur verða að vita um. Orsaka er að leita í því að bakslagi sem marx-leniniska hreyfingin hefur orðið fyrir. Nú vinna færri hendur verkin en áður og félaga vantar ástæður til að halda málgagni sínu hátt á lofti. Samt sem áður er full ástæða til að halda útgáfunni áfram, rétta Kommúnistasamtökin við, læra af reynslunni, nýta ýmsan árangur og efla Verkalýðsblaðið smám saman. Það er full þörf fyrir greinarnar í blaðinu og starfið að uppbyggingu nýs verkalýðsflokks getur ekki stöðvast, aðeins breytt um farveg.

Verkalýðsblaðið mun koma út mánaðarlega, 4,6 eða 8 síðna allt næsta ár. Tvö síðustu blöð þessa árs eru 8 og 12 síður. Þú heldur á 8 síðna blaðinu (nr.10) en [illegible] kemur út snemma í desember (nr. 11-12). Það verður fjölbreytt að efni, vélsett en ekki vélritað og er ætlað sem sölublað m.a. í sjoppur á Reykjavíkursvæðinu.

Okkur langar að ítreka að sérhver velunnari blaðsins getur orðið því að liði á margan hátt - með því að selja það, afla áskrifenda, skrifa í það, hjálpa til við rukkun, áskriftarmerkingar o.fl. Hugsaðu málið lesandi sæll og hafðu samband við ritstjóra (35904) eða skrifstofuna (laud.11-15, að Frakkastíg, sími 29212).

Nokkuð var um að auðar síður flæktust út til áskrifenda með 9. tbl. Verkalýðsblaðsins. Menn geta fengið nýtt eintak með því að hringja, skrifa eða líta við á aðsetri blaðsins.

Ritnefnd.

framhald af síðu 2

## Sumt nýtt – annað gamalt

Undirritaður vill þó láta í ljós efa sinn um einlægni þessarar skoðunar.

Varð það endanlega úr að allir féllust á að vera á móti SS20 kjarnaflaugum Sovétmanna um leið og kjarnorkuvígbúnaður Bandaríkjamanna var fordæmdur.

Eins og sjá má var þessi ráðstefna hin fróðlegasta og ýmsar skoðanir viðraðar, sumar nokkuð nýstárlegar. Er nú vonandi að starfsemi SHA verði meiri á næstunni en oft áður. Mun þar e.t.v. hjálpa nokkuð til að í nýkosinni miðnefnd SHA eiga sæti fulltrúar nokkuð breiðari pólitísks hóps, en oft hefur áður verið.

Að lokum vil ég benda öllum einlægum herstöðvaandstæðingum á að kynna sér ályktanir ráðstefnunnar, en þær eru fáanlegar í skrifstofu SHA að Skólavörðustíg 1A.

-rb

*Vetrarstarfið:*

# Starfseiningar um þrenn mál



Skrifstofa Kommúnistasamtakanna er í þessu húsi á horni Frakkastígs og Grettisgötu. Þar er opið á laugardögum frá kl 11 til 15.

Ýmsar fréttir eru af vetrarstarfi Kommúnistasamtakanna. Teknir eru til starfa þrír starfshópar um áhugaverð málefni í marxisma og sósíalisma. Einn fjallar um utanríkisstefnu kommúnista, risaveldin, stríðshættuna, friðarhreyfinguna o.fl. (Ari s. 35904). Annar um kjaramál, faglegt efni, stéttir á Íslandi, hagkerfið o.fl. (Kristinn s. 71438) og sá þriðji um sósíalismann og hagkerfi hans, kenningar um kommúnistaflokkinn, lýðræði o.fl. (Arnór s. 28904). Áhugafólki er heimil þátttaka í starfi hópanna - t.d. lestri, umræðum, greinarskrifum o.s.frv.

Þá eru fyrirhugaðir opnir umræðufundir um ýmis efni og eru þeir auglýstir í dagblöðum og útvarpi. Mikið verk er framundan við útgáfu Vbl, einu sinni í mánuði og eins við standsetningu húsnæðis samtakann á horni Frakkastígs og Grettisgötu í Reykjavík. Hefur öll starfsemin verið sameinuð þar nýlega.

Loks má geta þess að KS hafa enn ekki gefist upp við að leita uppi fulltrúa afganskra þjóðfrelsissinna til þess að bjóða hingað til lands.

Við minnum skólafólk á að samtökin eru reiðubúin til þess að taka þátt í umræðu - eða kynningarfundum og skipuleggja leshringi sé þess æskt. Kommúnistasamtökin hafa mikla þörf fyrir nýtt blóð og hvetja launafólk, skólafólk og aðra áhugamenn um framgang sósíalismans að ganga til liðs við þau. Námshópur um grundvallaratriði marxisma tekur þegar til starfa er nægilega margir nýliðar hafa óskað inngöngu.

29.10/t.

# „Fari skriða af stað er ómögulegt að vita hvar hún endar"

Einn af virkustu baráttu- og andófsmönnum Verkamannasambandsins er öskukarlinn, skríbentinn og háskólamaðurinn Guðmundur Sæmundsson, ekki óþekktur úr fjölmiðlum. Verkalýðsblaðið bað hann um að svara nokkrum áhugaverðum spurningum snemma í nóvember.



VBL: Hvert er þitt mat á þinginu? Hvað var merkilegast að gerast þar?

GS: Ég álít að þetta þing hafi verið ákaflega merkilegt fyrir ýmsar sakir. Það merkilegasta er líklega sú mikla samstaða sem þar náðist með verulegum fjölda fólks um kjaramálastefnu sem bar af stefnu verkalýðshreyfingarinnar mörg undanfarin ár. Þótt þessi stefna hafi ekki náð meirihluta hygg ég að hún hafi fengið meira fylgi en kunnugt er úr sögu verkalýðshreyfingarinnar um stefnu sem ekki er mótuð af verkalýðsforystunni heldur hinum alm. félögum í verkalýðshreyfingunni. Og í því sambandi er mikilvægt að hafa í huga að þessi stefna varð ekki til á þinginu, hún var ekkert "róttækt upphlaup" eins og oft hafa tíðkast. Þvert á móti var hér um að ræða stefnu sem búið hefur í brjóstum vinnandi fólks í langan tíma, en hefur aðeins á allra síðustu vikum og mánuðum náð að brjótast upp í gegnum einstök félög, t.d. Einingu á Akureyri, félögin í Vestmannaeyjum Vöku á Siglufirði og síðan ýmis félög iðnaðarmanna.

VBL: Úr því að aðeins fá félög hafa tekið upp þessa stefnu, hvernig tókst þá að vinna henni slíkt fylgi á VMSÍ-þinginu?

GS: Þar kemur tvennt til. Mjög mörg félög höfðu ekki sett fram neina kröfugerð, nema þá í mjög almennu formi Þetta gilti einkum um litlu félögin úti um land. Fulltrúar þessara félaga gátu því auðveldlega stutt þessa stefnu þegar þeir sáu hve heilsteypt hún var og hversu líklegt var að auðvelt yrði að vinna henni fylgi. Í annan stað kom upp á þinginu mjög sterk samstaða kvenna, ekki alger – en veruleg. Sú stefna sem gekk gegn stefnu forystunnar var einmitt þannig í eðli sínu, að konur hlutu að eiga auðvelt með að styðja hana. Langur vinnutími er atriði sem kemur ver niður á konum en körlum, með tilliti til heimilisstarfanna. Þetta tvennt gerði það að verkum að mínu mati að fylgið varð svo mikið. Og það hefði orðið enn meira og vafalaust fengið meirihluta ef ekki hefðu komið til falsanir og lygaáróður forystunnar og starfsmanna hennar um þessa stefnu. Þeim áróðri tókst ekki að hnekkja nógu vel á þinginu, og því fór sem fór.

VBL: Hvað ætlar Eining að gera í framhaldi af VMSÍ-þinginu?

GS: Ég er viss um að sú kröfugerð sem m.a.a. Eining stóð að á miklu meira fylgi meðal almennings en smánarkröfur ASÍ og VMSÍ- forystunnar. Enn er nokkur von til þess að hægt verði við samningaborðið að ná þessari stefnu fram. Meðan einhver von er um það ætlar Eining að vera með í svokölluðu samfloti. Ég tel það rétta ákvörðun miðað við aðstæður. Takist að sveigja kröfugerð og samningsgerð í átt til þess að dagvinnulaunin ein nægi til mannsæmandi kjara er það umtalsverður sigur, bæði í baráttunni fyrir bættum kjörum og ekki síður í baráttunni gegn undanslætti og stéttasamvinnu stefnu verkalýðsforystunnar. Takist hins vegar ekki að knýja þessa stefnu í gegn, mun Eining rjúfa samstarfið og leita annarra leiða til að koma stefnu sinni fram. Ég get nefnt að það var almennt álit á félagsfundi hjá okkur í Einingu um daginn að kröfugerð ASÍ og VMSÍ-forystunnar væri ekki þess virði að hreyfa litlafingur til þess að ná henni fram, þannig að ég á ekki von á að við verðum með í neinum verkfallsaðgerðum vegna hennar.

VBL: Hverjar eru horfurnar í samningaviðræðunum?

GS: Sjálf samningsgerðin er í höndum flokkshollra gæðinga örsmárrar klíku. Þeir ætla sér ekki að ná neinu fram – vilja ekki sprengja þá ramma sem ríkisstjórnin þeirra hefur sett þeim. Ég á því alls ekki von á góðum samningum. Takist að ná "vinnutíma-stefnunni" fram, spái ég að brott falli á næstu árum 4 eftirvinnutímar og á móti komi 12-14% hækkun dagvinnulauna. Verði "prósentustefnan" ofan á, spái ég 8% kauphækkun í 3-4 áföngum á 2 árum. Aðstaðan til að þrýsta á þessa háu herra er mjög slæm, eins og ástandið er nú í hreyfingunni með alm. þátttökuleysi almennra félaga og lýðræðis skorti í félögunum. Hitt er svo annað mál, að einstök félög gætu hugsanlega samið betur, einkum þar sem einhver fjöldi virkra félaga er á ferð. Fari sú skriða af stað er ómögulegt að vita hvar hún endar. Þá fljúga öll samflot út í buskann og þá gæti ýmislegt farið að gerast. Einkum ef foringjarnir missa tökin.



Frá steypuskálunum í Straumsvík.

VBL: Kjarabarátta án pólitískrar baráttu- er hún möguleg? Hvernig á að tryggja það sem vinnst þannig að það verði ekki tekið aftur af pólitísku valdi í landinu?

GS: Pólitísk barátta er ekki bara flokkapólitík og ríkisstjórnarmál. Áhrifamesta pólitíska baráttan er fjöldabaráttan. Pólitísku flokkarnir og önnur tæki borgarastéttarinnar munu að sjálfsögðu reyna að eyða öllum ávinningum komandi samninga einsog gerst hefur æ ofan í æ. Það getur ekkert komið í veg fyrir það nema ótti þessara afla við álit og styrk fjöldans. Verði ávinningarnir fólgnir í stefnu sem fólk finnur að það á einhvern þátt í, er miklu erfiðara fyrir auðvaldið að ná sínu aftur. Séu ávinningarnir hins vegar aðeins merkingarlausar prósentur mun fólk tæplega rísa upp til varnar. Vegna þeirra umræðna sem farið hafa fram undanfarið í VBL. langar mig til að bæta við að auðvitað getum við aldrei tryggt það að auðvaldið taki ekki aftur á einhvern hátt það sem tekst að naga af því. Slík trygging fæst auðvitað ekki í þjóðfélagi þar sem auðvaldið er hinn sterkari aðili stéttabaráttunnar. Ákveðnir fræðingar VBL. hafa því glapist til að láta frá sér það álit að þáttaka í kjarabaráttu verkafólks sé snautlegt hlutskipti. Verkafólk mun að sjálfsögðu sjálft dæma úr leik þá meintu "komma" sem þannig skrifa. Enginn verkalýðssinni efast um að þörf sé fyrir sterkt pólitískt af sem hafi hagsmuni verkafólks fyrir augum – og þá hagsmuni eina- og stefni að því að færa völdin til fólksins. En það er mikill misskilningur ef menn halda að slíkt stjórnmálaafl geti grundvallast á fræðikenningu og bókastússi einu saman. Grundvöllur pólitískrar baráttu í þágu verkafólks verður að vera sú barátta sem fyrir hendi er og sem geysar alla tíð, hvort sem kommar kjósa að vera þar með eða ekki.

–agé

## Mikilvæg krafa: Lýðræði!

Nú stefnir í samningaþóf og bitlítil samflotsverkföll. Kröfur ASÍ verka ekki sameinandi á félaga þess. Kröfur BSRB verða eitthvað skárri. BHM hefur ekkert annað að gera en að leggjast á höggstokk kjaradóms. Það eru helst sjálfstæð sambönd starfshópa sem móta sameinandi baráttukröfur og nýra baráttutaktík sem atvinnurekendur óttast. Allir fjórir þingsalaflokkarnir hvetja til hógværðar og gagnrýni stjórnarandstöðunnar fellur máttlaus því



að hún er sjálf mynduð úr kaupránsflokkum. Um leið eru kjör meirihluta launafólks hættulega slæm og yfirvinnan hefur mýmörg félagsleg vandamál í för með sér. Atvinnurekendur staðfesta með tapsöng og gróðasamkeppni að efnahagskerfið er að mestu ónýtt og óþarft íslenskri þjóð.

Í þessari stöðu er þarft að hugleiða framhaldið. Verðbólguhjöðnun svonefnd er fölsk og segja útflytjendur að gengið eigi að falla um 20% því raunveruleg verðbólga sé 60% en ekki 40%. Kjarabætur verða því ekki miklar. Ekki vegna þess að efnin séu lítil, heldur vegna þess að íslensk yfirstétt hefur enn húsbóndavaldið og mun verjast áföllum og verðbólgu af kappi, njótandi þess hve ólýðræðisleg verkalýðshreyfingin er sterklega undir áhrifum úrtölumanna og meinlausra krata. Þess vegna er ekki brýnast nú að halda uppi róttækum kjarakröfum. Það skal þó vissulega gert og fyrir þeim barist. En sérhver andófsmaður og baráttusinni í verkalýðshreyfingunni ætti að leggja meiri áherslu á umbætur í félagi sínu undir kjörorðinu: Aukið lýðræði – sjálfstæðari samtök. Menn verða að taka saman höndum þótt þeir séu ósammála um mörg atriði þjóðmála, um að vinna að skipulagsbreytingum breytingum á starfsháttum, forystuskiptum og nýrri róttækari stefnumótun í félögum sínum. Slíkt er forsenda meiri árangurs í kjarabaráttunni. Við verðum að byrja á byrjuninni!

Ari Trausti Guðmundsson
úr stjórn KS.

# BHM: Áhrifalaus samtök – kjararýrnun

Í Bandalagi háskólamanna eru fáein þúsund manns sem vinna hjá opinberum aðilum og tilheyra launamannahluta sambandsins. Laun þessa fólks eru nú á bilinu 5.838 (101 fl.) til 13.664 (122 fl.) kr en flestir munu vera í flokk um með um 8500 kr. mánaðarlaun. S.l. 3-4 ár hafa kjör þessa fólks rýrnað um 15-25% eftir því hvernig reiknað er hvaða félagsmálapakkar eru meðtaldir og hve áreiðanleg vísitala framfærslukostnaðar (tæpl. 20 ára grunnur) er talin.



Menntaskólinn við Hamrahlíð:
Á starfsfólk skólans að hafa verkfalls- og samningsrétt

Það hlýtur hver maður að sjá að þorri launamanna í BHM er ekki hálaunafólk, jafnvel ekki miðað við óhugnanleg grunnlaun verkalýðsins í landinu.

Margar skýringar eru á þessari stöðu. Sú er áreiðanlega veigamest að BHM hefur ekki raunverulegan samnings- eða verkfallsrétt. Yfirleitt hafa "kjarasamningar" gengið þannig fyrir sig að launamálaráð og samninganefnd BHM leggja óhemju mikla vinnu í að móta kröfur aðalkjarasamnings (reyndar vantar þar lýðræðislegri kröfugerð). Kröfur eru lagðar fyrir samninganefnd ríkisins sem svarar ekki einu sinni kröfunum, heldur segir stutt og laggott: "Við erum ekki til viðtals um kröfur sem þýða útgjaldaauka fyrir ríkið."

Samningafundir eru tilgangslausir og deilan fer sjálfkrafa til sáttasemjara og þaðan í Kjaradóm. Hann leitar eftir fordæmum (t.d. nýgerðum samningum BSRB og/eða ASÍ) og fer eftir þeim í dómsorði, sem verður þá gildandi samningur. Vanti fordæmi er hægt að fresta dómsuppkvaðningu með samþykki málaaðila eins lengi og þurfa þykir. Ekki bætir úr skák að ýmis skerðingarákvæði laga (t.d. um vísitöluþak) hafa komið ver við BHM-menn en aðra og "vinstri" stjórnin hefur reynst hrokafyllri samningsaðili en aðrar stjórnir. Hún biðlar ákaft til láglaunafólks með því að skamma BHM fyrir frekju og segja að "hálaunafólkið" skuli nú aldeilis fá að blæða svo að meira verði til skiptanna handa hinum. Kökukenningarkjaftæðið hittir í mark hjá þeim sem misskilja uppsprettu launa í landinu.

Það er varla furða þótt mörgum BHM-launamanninum þyki sem hann sé réttindalaus leiksoppur ráðamanna. Og því miður er lítil samstaða um að ná eðlilegum samningarétti innan BHM (einna helst er hún innan Hins ísl. kennarafélags) og kjaramálaáhugi er fremur lítill.

Samningar BHM eru nú lausir og vísast að svo fari sem áður. Kjaradómur fellur einhvern tíma þegar búið er að þreyta önnur stéttarfélög til mikils afsláttar og samninga.

Líklega myndu fáir launamenn utan BHM sætta sig við annað eins miðaldafyrirkomulag og tíðkast í þessu efni og varla heldur við "háu launin" í fjölmennu launaflokkum BHM.

–Fréttaritari.

# Um flokkinn, uppgjör og fleira

Já. það er þetta með kreppu róttækrar hreyfingar á Íslandi, þá ómældu pólitísku depurð, sem fylgt hefur og litlu trú á allt það sem menn börðust svo ótrauðir fyrir. Sumum finnst allt ónýtt, baráttan tímaeyðsla og stefnan della, í því felst uppgjör margra. Öðrum finnsta það fullharður dómur, en óljóst hvað til bragðs á að taka.

Ég vil taka eitthvað til bragðs, en hvað? Mér finnst kominn tími til að hætta að gráta hörðu árin og það er raunar nægilega langt um liðið til að það sé hægt. Svo vil ég ekki gefa skít í þetta, heldur taka stefnuna á pólitískt uppgjör, uppgjör við hvern einstakan lið í stefnu kommúnista á áttunda áratugnum, skoða hvað var gagnlegt og hvað til bölvunar. Á hverju byggðum við okkar stefnu?

Þetta er vitanlega ekkert smámál, en þetta er starf sem þarf að vinna, til að kommúnísk hreyfing geti verið lífvænleg á Íslandi. Uppgjörið er eftir, stefnumótunin er eftir. Umræður seinustu tveggja ára, hafa í hæsta lagi verið nauðsynlegur aðdragandi þess.

Við þurfum að athuga grundvöllinn að utanríkispólitík okkar. Var hún ekki á sínum tíma byggð fyrst og fremst á stefnu Kínverja, stefnu sem byggðist fyrst og fremst á hagsmunum Kínverska Alþýðulýðveldisins. Sama þarf að gera með hugmyndir okkar um sósíalískan flokk, gerð íslenska þjóðfélagsins í dag o.s.frv.

## Hvað var meint með sósíalisma?

Já, hvað var meint með sósíalisma? Að hverju stefndum við? Við könnuðum nokkr..r, hvað Einingarsamtökin, KSML, Fylkingin og raunar Alþýðubandalagið líka, hefðu um framtíðarþjóðfélagið að segja. Eftirtekjan var heldur rýr. Fram komu almenn atriði, ekkert segjandi, talað um sameign framleiðslutækja, en lítið talað um þjóðfélagsgerðina að öðru leyti. Hvað með fjölflokkakerfi, lýðræði, frelsi fjölmiðla? Þessu er ekki svarað.



"...sérstökum áhrifum Flokksins yfir fjöldasamtökum ber að hafna..." segir greinarhöfundur. Útifundur herstöðvaandstæðinga í Reykjavík 11. september 1960 að loknum Þingvallafundi.

Hvers vegna? Skýring mín er sú, að félagar, a.m.k. margir þeirra féllust á framkvæmd sósíalismans í Kína, Albaníu og Stalín-Sovét. Menn féllust á skert málfrelsi, bann við starfsemi annarra stjórnmálaflokka, menn féllust á allsráðandi stöðu flokksins og yfirráð hans yfir fjöldasamtökum. Helstu rökin voru þau, að stéttarandstæðinginn þyrfti að beita hörku og sterku miðstjórnarvaldi. En ætli ég og fleiri höfum ekki gert okkur ljóst að þessi málflutningur ætti lítið upp á pallborðið hjá almenningi. Sjálfsagt hefur verið gert ráð fyrir að það myndi breytast í hörðum stéttaátökum. Vissulega verður að hafa í huga að kommarnir trúðu því að mannréttindamál væru í betra horfi í sósíalískum löndum. En það er engin afsökun.

## Ógn um flokkinn.

Ég held að Flokkurinn sé lykillinn að illum örlögum sósíalismans og þá á ég við bæði innri uppbyggingu hans og hvernig var litið á stöðu hans í þjóðfélaginu.

Vissulega á ýmislegt af því sem við sögðum um flokkinn/samtökin rétt á sér. Mikilvægast af því finnst mér vera að þau eigi að samanstanda af virkum félögum, séu skipulögð í einhvers konar grunnhópum, sem haldi upp starfinu, þau lúti lýðræðislega kjörinni stjórn sem framkvæmi meirihlutavilja á hverjum tíma og hafi sömu grundvallarstefnu.

Það sem skemmdi hins vegar hvað mest fyrir okkur, að mínu mati, voru þau atriði sem nú skulu nefnd. Þau eiga við miklu fleiri en gömlu Einingarsamtökin.

Því var haldið fram að ætíð berðust tvær stefnur í kommúnískum flokkum/samtökum, önnur hlyti alltaf að vera rétt og verkalýðssinnuð, hin röng og borgaraleg. Það er auðvelt að ímynda sér, hvaða áhrif svona lagað hefur á skoðanaskipti manna.

Alla tíð hefur verið lögð áhersla á baráttu gegn klíkum og skoðanahópum í samtökum þessarar gerðar og slíkt verið álitið hættulegt einingunni. Ég vil hins vegar segja að menn e..gi að vera sammála um fá grundvallaratriði, en hljóti að vera ósammála um ótal margt annað, ekki bara innan samtakanna heldur líka út á við.

Áður hef ég sagt að kommúnísk samtök eigi að vera samtök virkra félaga. Það þýðir, að mínu mati, að virkir félagar séu þeir sem taka þátt eftir getu, sumir e.t.v. lítinn, allt eftir aðstæðum.

Í lokin eru nokkrar hugmyndir um stöðu kommúniskra flokka í sósíalísku samfélagi. Gera verður ráð fyrir að flokkurinn yrði aðeins eitt af mörgum öflum sem héldu uppi baráttu fyrir sósíalisma. Reynslan hefur sýnt, að forrétindastaða flokks og sérstök valdastaða í þjóðfélaginu er beinlínis hættulegt. Að mínu mati er því fjölflokkakerfi eðlileg afleiðing, þó maður geti ímyndað sér að það yrði á nokkuð öðrum grunni en borgaralegir flokkar standa á. Í þessu eru sjálfsagt fólgnar ýmsar hættur, en líka trygging fyrir gagnkvæmu aðhaldi og stöðugri og öflugri gagnrýni milli pólitískra flokka. Afstaða mín er sém sé sú, að skoða ber Flokkinn sem jafnréttháan öðrum pólitískum flokkum og af þessu leiðir t.a.m. að sérstökum áhrifum flokksins yfir fjöldasamtökum beri að hafna (t.d. verkalýðsfélögum). Staða flokks í sósíalísku samfélagi á að ákvarðast af hans eigin verðleikum, en ekki lögbundnum forréttindum.

Sumarliði.

# Takmörk hreinnar hagsmunabaráttu

Í þeim orðaskiptum sem átt hafa sér stað að undanförnu á síðum Verkalýðsblaðsins, hefur verið drepið á nokkur þau atriði sem tvímælalaust skipta sköpum um velgengni ellegar hrakfarir kommúnistahreyfingarinnar. Þessi atriði varða sambandið milli meira og minna sjálfsprottinnar fjöldabaráttu og vísvitaðrar stefnu kommúnista, milli þröngrar hagsmunabaráttuhvort heldur innan fagfélaganna eður annarra hagsmunasamtaka- og umbyltingarstefnu kommúnista.

Tvær skýringar.

Það er deginum ljósara að kommúnistahreyfingu liðinna ára hefur mistekist að mynda þau lifandi tengsl við verkalýðsstéttina sem hún hefði kosið. Skýringa hefur verið leitað með ólíkum hætti og eftir því ólíkra leiða til lausnar vandanum, s.s. sjá má af framlögum "GS", MSn" og undirritaðs til umræðunnar. Greinilegt er að tvö meginviðhorf eru nú uppi. Annars vegar hugmyndir sem skýrast birtast í grein GS, en skjóta víðast upp kollinum með óljósari hætti, hins vegar afstaða, sem kemur fram hjá MSn, undirr. og í nýlegri ályktun KS. Gagnstætt GS, sem hefur tilhneigingu til þess að skýra einangrun KS útfrá ofuráherslu þeirra á fræðilega baráttu sem komið hafi niður á lífrænu starfi meðal verkafólks, álíta M.Sn og undirr. að hún stafi fremur af langvarandi sinnuleysi og vanrækslu KS gagnvart fræðilegri undirstöðu sinni.

Sú afstaða sem birtist í skrifum GS og ég tel háskalega (og reyndar dauðadóm yfir hreyfingunni) er ekki ný af nálinni, hvorki hérlendis né alþjóðlega svo sem ég drap á í Vbl. 8. tbl. Angar hennar hafa ýmist birst í gerfi örgustu "vinstri-sýki" ellegar hægri spegilmynd hennar. Í báðum tilfellum er um algert vanmat að ræða á gildi alhliða fræðslustarfs; alhliða afhjúpunar, byggðri á staðreyndum og fræðilegri útlistun þeirra, en ekki hugarburði og slagorðavaðli.

Takmörk hagsmunabaráttunnar.

Afstaða hagsmunabaráttumanna (langt og ljótt orð sem ég kýs þó fremur en fagfélagssinni sem mér finnst of þröngt hugtak eða ökonomisti sem mörgum er illskiljanlegt) hvílir á þeirri forsendu, að með því að "starfa á meðal fjöldans" af ósérplægni og alúð muni kommúnistar með tímanum öðlast traust verkafólksins (eða félaganna í fjöldahreyfingunni) og þar með tækifæri til að boða því sósíalískar hugmyndir. Þannig skyldi hinum lífrænu tengslum fjölda og sósíalískra hugmynda komið á. Svo auðvelt - svo einfalt, bara að hinir kommúnísku menntamenn hyrfu í raðir fjöldans, gerðust verkamenn í orðsins fyllstu merkingu, eða a.m.k. helguðu fjöldabaráttunni sem næst alla krafta sína.

Gott og blessað er það. En einn er þó vandinn óleystur. Þegar kommúnistinn með þessu hefur náð trausti stéttarbræðra sinna (sem vel má vera mögulegt), hvernig á hann þá að snúa sér að því meginverkefni að boða þeim byltingarsinnaðar hugmyndir? Á nú verkalýðurinn að veita þeim boðskap viðtöku vegna persónulegs trausts á kommúnistanum sem baráttumanni, en ekki með því að taka rökræna afstöðu til kommúnismans sem stjórnmálastefnu er samrýmist stéttarlegri reynslu hans og þörfum? Hvað skín svo á endanum út úr þessu, annað en sú auðvaldsgaldraþula, að verkalýðnum sé ekki ætlandi annað en að vera vitundarlaust verkfæri í höndum múgæsingamanna og "verkalýðsrekenda", sem hvorki beri skyn á fræðilegar rökfærslur né staðreyndir? Þannig snýst þessi hugmynd sem upphefst með fávíslegu smjaðri fyrir hinum óþroskuðustu (pólitískt) meðal launafólks (sbr.



Marx sagði margt um takmörk hreinnar hagsmunabaráttu. Erum við sammála honum?

t.d. ýmis gullkorn frá upphafsárum KSML) upp í megnustu fyrirlitningu sé hún hugsuð til enda. Í þeirri afkáralegu dýrkun verkalýðsstéttarinnar sem oft hefur verið viðloðandi kommúnistahreyfinguna hefur sú hlutlæga staða stéttarinnar sem gerir hana byltingarsinnaða verið snúið upp í móralska dyggð.

Bilið milli vitundar verkamannsins um eigin stéttarhagsmuni (sem ósættanlega andstæða hagsmunum auðmannanna) og fulls skilnings á nauðsyn umbyltingar gervallra framleiðsluafstæðna og yfirbyggingar kapítalismans ( sem og hinu byltingarsinnaða hlutverki stéttarinnar) er e.t.v. ekki breitt. En engu að síður afgerandi! Og þó verður ekki yfirstigið með öðrum hætti en þeim, að verkalýðsstéttin öðlist þekkingu og skilning á sérhverju meiri háttar líffæri auðvaldslíkamans og samspili þess við önnur slík. Slík þekking - slíkur skilningur getur stéttinni því sem næst eingöngu borist "að utan" Hann nær langt út fyrir reynslu hverdagslegrar stéttabaráttu.

Um hvað snýst kommúnísk fræðsla?

Uppgötvun og útskýringar Marx á tilvist gildisaukans hafa haft gífurlega þýðingu fyrir sjálfs skoðun verkalýðsstéttarinnar (og langt um meir en flestir gera sér grein fyrir nú). En fræðsluskylda kommúnista gagnvart verkalýðsstéttinni getur ekki einskorðast við útlistanir slíkra grundvallarsanninda, hún nær miklu lengra. Því síður mega kommúnistar láta binda sig á klafa úr sérgreinum og stirðnaðra forma, - undanvillinga sósíalískrar nýsköpunar eins og gerðist í Sovét- og Kínadýrkun fyrri ára. Önnur eins steingelding fræðilegrar hugsunar má ekki endurtaka sig. Nei, kommúnísk samtök eða flokkur, helst sérhver kommúnisti, verður að vera fær um að benda á og sjá í hvert skipti sem kapítalisminn afhjúpar eðli sitt í smáu eða stóru; hvort heldur um er að ræða svikamillur auðhringa, skattsvik auðmanna lögleg eða ekki, gróðabrask fasteignaspámanna, þær lögfræðilegu hringavitleysur sem spretta af misskiptingu eigna og valda, orsakir verðbólgu, fölsun vísitölu, o.s.frv. o.s.frv. Hvorki stéttarleg reynsla, né almenn fræðileg skólun ein sér getur komið slíkri þekkingu til skila. Hér þarf að halda á vit haldgóðra staðreynda og traustrar fræðimennsku. Þekkingarbrotanna þarf að leita, hvort heldur það er er í opinberum hagskýrslum, vísindalegum könnunum af ýmsu tagi eða með öðrum hætti. Markmiðið er alhliða afhjúpun - að rífa fíkjublaðið frá blygðun auðvaldsins, þannig að ekkert blasi við nema getuleysi þess!

Samhliða þessu miðar kommúnísk fræðsla að því að búa í haginn fyrir framtíð hinnar sósíalísku félags- og hagskipunar og um leið færa verkalýðsstéttina nær markmiðinu. Þessi þáttur fræðslustarfseminnar verður að vera tvíþættur: Í fyrsta lagi að skýra þróun sósíalískra þjóðfélagsbyltinga. Þetta er sérlega mikilvægt vegna þess hve sú þróun hefur orðið mörgum vonbrigði. Í öðru lagi að gera grein fyrir á hvern hátt sósíalísk þjóðfélags skipan er sprottin af hlutlægum þáttum (mótsögnum) kapítalismans. Að svo miklu leyti sem unnt er að ákvarða gerð sósíalismans er hið síðarnefnda tvímælalaust afgerandi.

Áratugum saman hefur undarleg þögn ríkt meðal vestrænna kommúnista um gerð þess sósíalisma sem þróaðasta form kapitalisma hefur getið af sér. Má þar kenna tvennu um: Áhrifavaldi sovéskrar hugmyndafræði og fámælgi Marx. Ljóst má þó vera, að nú liggur fyrir slíkur hafsjór reynslu, að þær góðu gildu ástæður sem Marx hafði fyrir fálæti sínu eru löngu fallnar

framhald á síðu 7



Greinarhöfundur reynir að svara spurningum um hvort rétt sé að samþætta hagsmunabaráttu og pólitíska baráttu. Hvað skyldi þessum mönnum finnast um það?

svar til IÁJ

# Úr NATO – gegn Varsjárbandalaginu

Að mörgu mætti hyggja í grein Ingólfs Á. Jóhannessonar í Vbl. nr.9 "Samtök Herstöðvaandstæðinga á krossgötum". IÁJ segir t.d. að röksemdafærslan um að Sovétmenn komi ef Bandaríkjamenn fari (sem ég kannast reyndar ekki við úr okkar hreyfingu) og kröfur um að spjótum sé beint að Sovétríkjunum samhliða kröfu um úrsögn úr NATO, hafi rúið maðista trausti í hermálinu. Seinna atriðið kannaðist ég vel við úr okkar hreyfingu og tel það ekki Moggaraus eins og IÁJ segir að flestir herstöðvaandstæðingar geri. Og víst hefur það rúið mig trausti. En svo er nú oft, þótt stefnan kunni að vera rétt. Í þessu tilviki er skýringin einfaldlega sú að þorri íslenskra herstöðvaandstæðinga hefur ekki enn séð í gegnum Sovétríkin. IÁJ má svo ekki gleyma hópnum, sem líklega er stærri en hópur herstöðvaandstæðinga - þ.e. herstöðvasinnum. Úr þeim hópi þarf að vinna stöðvaandstæðinga ef baráttumál okkar eiga fram að ganga. Það gerist bara með baráttu gegn báðum risaveldunum. Þeim mun ríkari ástæða til að halda í stefnuna. Hitt er svo kaldhæðni örlaganna að fólk sem hataðist við Sovét-Rússland meðan heimsfriðnum stafaði ekki hætta af því, skuli nú hafa réttara fyrir sér í þeim efnum en margur herstöðvaandstæðingurinn.

Má ég svo minna á orð Jóns Ásgeirs Sigurðssonar, eins af framámönnum Alþýðubandalagsins í hermálinu: "Fólk sem ekki tekur afstöðu gegn Varsjárbandalaginu um leið og Atlantshafsbandalaginu er ekki herstöðvaandstæðingar" (Dagbl.). Það veit ég að IÁJ gerir, en við erum bara ekki sammála um hve mikið skuli kröfur gegn austurblökkinni skuli taka í baráttunni hér.

Ég hefi skrifað 10-20 greinar í dagblöðin um öryggismálin s.l. 2 ár. IÁJ segir að í greinum þessum megi finna tilefni til að halda að ég sé ekki með öllu andvígur NATO. Það hefur verið helsta iðja Þjóðviljans og Neista. En hvorki IÁJ né þessi blöð bera fram eina einustu tilvitnun sem sannar mál þeirra. Ég tel staðhæfingarnar rangar og bendi á að snertiflötur minn og Jóns krata Baldvins er almannavarnir og viðurkenning á því að landvarnir þurfi ekki að vera af hinu illa. Athugasemdir IÁJ eru þarflausar, en hins vegar gleðilegt að hann telur margar hugmyndir mínar umræðu verðar. Hefjum hana!

Ari Trausti Guðmundsson.

Myndbönd:

# Til góðs eða ills?

Hið svokallaða videoæði er heldur dapurlegt fyrirbrigði í núverandi mynd sinni hérlendis. Stór hluti þjóðarinnar situr aðgerðalaus fyrir framan sjónvarpstækin - eftir að dagskrá íslenska sjónvarpsins lýkur - og meðtekur engilsaxneskt afþreyingarefni. Í gegnum sjónvarpsþræðina streyma myndir sem margar hverjar eru svo lélegar að kvikmyndahús hafa ekki viljað líta við þeim. Börn og unglingar sitja og horfa á myndir sem væru bannaðar þeim ef sýningin færi fram í kvikmyndahúsi. Oft er setið fram til klukkan þrjú að nóttu.

Óprúttnir náungar dæla klámi, ofbeldi, hryllingi og stórslysamyndum inn á heimilin - og græða tugi þúsunda á stuttum tíma. Lagðir eru ólöglegir kaplar, höfundalög og barnaverndarlög eru brotin. Hið opinbera gerir ekkert til að stemma stigu við lögbrotunum og þess eru jafnvel dæmi að kjörnir fulltrúar í bæja- og borgarstjórn styðji og stuðli að framgangi þeirra.

Ef dæma má af staðsetningu flestra þeirra kerfa sem í gagni eru, þá eru flestir áhorfendur afmenningarmiðilsins tilheyrandi fjölskyldum verkafólks. Innihald sýningarefnisins er einhliða - yfirgnæfandi rusl sem inniheldur oft margvíslega fordóma sem þjóna arðráni og nýlendukúgun.

Mætti nota til annarra hluta.

En myndbandatæknina má nota til jákvæðra hluta. Það er búið að tengja saman stóran hluta Breiðholts og hægt er með auðveldum hætti að setja allt hverfið inn á sama kapalinn. Í rauninni er hægt að koma upp staðbundinni sjónvarpsstöð í hverfum, þorpum og bæjum. Í stað þess myndefnis sem nú er sýnt má setja annað menningarlegra og merkilegra. Umfjöllun um vandamál hverfis eins og Breiðholts gæti farið inn á hvert heimili. Einstaklingar og hópar geta kynnt sig og sína afstöðu á skýran og áhrifaríkan hátt. Umræðuþættir, kynning á þeim valkostum sem eru til staðar í hverfinu. Draga má fram skoðanir fólksins, kynna málefni skólanna, borgarfulltrúana má spyrja spjörunum úr. Börn og unglingar geta gert sína eigin þætti, staðbundnar unglingahljómsveitir kynna sig - íbúasamtökin brýna fólk til afskipta af málefnum hverfisins. Allt þetta og margt fleira má gera. Og auðvitað mætti blanda afþreyingarefni saman við.

Þáttagerð.

Með einfalda myndavél og upptökutæki að vopni má gera þátt sem eykur samstöðu og skilning alþýðufólks sem ef til vill situr nú aðgerðalítið við "vídeóið".

Trúlega liggur framtíðin einhvers staðar á milli þess hryllings sem nú ríkir og hinnar heiðbjörtu myndar sem upp var dregin hér á undan. Eftir að lögbrotin eru að mestu fyrir bí vegna breyttra laga og herðingar eftirlits, verða fáar amerískar kvikmyndir til sýnis í því formi sem nú er. Ekkert húsfélag stæði undir því til langframa að greiða öll tilskilin gjöld af slíkum myndum. Og glæpafyrirtækin sem nú stela öllu sínu sýningarefni kæra sig auðvitað ekki um það.

Í staðinn kæmi eitthvað innlent tilbúið efni - auglýsingar jafnvel sem tekjuöflun. Eftir stæði samt sem áður tækifærið til að nýta tæknina fyrir fólkið - hinni staðbundnu sjónvarpsstöð gætu lýðræðisleg íbúasamtök stjórnað eða haft veruleg ítök í.

Myndbönd til góðs eða ills - það er spurningin.

Há.

# Eitt kennara samband?

Eins og fram kemur í grein um Bandalag háskólamanna, eru háskólamenntaðir kennarar (Hið ísl. kennarafélag) einna baráttuglaðasti hluti bandalagsins. Um leið eru kjaramál þeirra í klemmu vegna þess að BHM hefur hvorki verkfalls- né samningsrétt sem orð er á gerandi. Fyrir nokkru sameinuðust kennarar í framhaldsskólum og grunnskólum er áður voru í tveimur félögum eða samböndum. Ýmis vandamál eru óleyst eftir sameininguna, en greinilegt er að kennarar telja hana hafa verið þarft spor. Heyrst hefur að umræða fari fram í hinu sameinaða sambandi um aðild þess að BSRB.

Virðist svo sem margir telji rétt að kennarar semji beint við ríki og bæjarfélög og má benda á heldur baráttuglaðari sjálfstæð félög eða sambönd (bókagerðarmenn og bankamenn) en almennt gerist í því sambandi. Þá er líka vitað að verulegur áhugi er á úrsögn HÍK úr BHM og sameiningu þess félags við kennarasambandið. Er ekki kominn þarna íhugunarverður valkostur í kjarabaráttu kennara?

Ekki sakar þótt kennarar hafi með sér viðræðufund um þetta efni. Hafið frumkvæði lesendur úr hópi kennara!

-fréttaritari.

framhald af síðu 6

## Takmörk hreinnar hagsmunabaráttu

úr gildi. Hér þurfa kommúnistar nútímans að opna nýtt svið þekkingaröflunar og fræðslu. Slík fræðsla getur skipt sköpum um byltingarvitund verkafólks.

Mér er ekki í mun að gera lítið úr þörf KS fyrir lifandi tengsl við fjöldann, öðru nær. En forsenda þess að slík tengsl verði árangursrík er að mínu viti sú, að hreyfingin öðlist haldbetri þekkingu og traustari fræðilegan grundvöll en áður, samhliða því sem hún víkur til hliðar ýmsum bábiljum fyrri ára. Einhverjir munu segja að um það séum við ekki fær. Það sé þegar margreynt. Þeir um það. En við getum ekki annað en reynt. Við getum ekki beðið þess að véfréttin tali skýrar eða nýir Leninar stökkvi fullskapaðir fram á sögusviðið eins og Mínerva úr höfði Júpiters. as.

# Nefndi einhver moðhausakenningu?

Þegar þetta blað og fleiri aðilar, tóku fyrst að vara við stríðshættunni sem fylgdi samkeppni heimsvaldaríkjanna og hlut Sovétríkjanna í henni sem ríkjandi heimsveldis, sem krefðist síns skerfs af áhrifasvæðum og mörkuðum, var sú kenning kölluð "moðhausakenningin" af Fylkingarfélögum og fleira vinstra fólki. Nú hefur þeim röddum fækkað, sem halda slíku á lofti, eftir að fleiri og fleiri andheimsvaldasinnar gera sér ljóst heimsvaldaeðli Sovétríkjanna og það afhjúpar sig stöðugt í utanríkisstefnu þeirra og hernaðarbrölti. Það er því vel þess virði að athuga þá heimsmynd og rök fyrir henni sem andstæðingar "moðhausakenningarinnar" í Fylkingunni leggja fram fyrir afstöðu sinni í dag, þegar þeir horfa til Sovétríkjanna með blinda auganu.

Í nýjasta tölublaði Neista (nr.10) málgagns Fylkingarinnar, gefur að líta all sérstaka fræðilega loftfimleika í nafni marxismans og það sem meira er í nafni byltingarsinnaðs slíks. Undir yfirskriftinni "afstaða byltingarsinnaðra marxista til friðarhreyfingarinnar" skrifar "pólitísk framkvæmdanefnd Fylkingarinnar" alllanga grein, þar sem borðlögð er "afstaða" þessara spekinga til Sovétríkjanna.

Greinin hefst á því að réttilega er gerð grein fyrir því að marxistar séu ekki friðarsinnar í þeim skilningi, að þeir fylgi einhverri almennri meginreglu um að undir öllum skilyrðum sé rangt að grípa til vopna. Hins vegar er bent á að marxistar hljóti að berjast gegn þeim hernaði sem heimsvaldastefnan háir í innri samkeppni sinni. En með því lýkur allri marxískri umfjöllun og rökhugsun í greininni, þótt ekki skorti "marxiska frasa" í afganginn.

Í greininni er gerð grein fyrir því, að heimsstyrjaldirnar tvær hafi átt upptök sín í samkeppni heimsvaldaríkjanna um heimsmarkaðinn, fyrir nýrri uppskiptingu, en síðan er eins og allt hafi úr skorðum gengið eftir síðari heimsstyrjöldina og samkeppni heimsvaldaríkjanna gufað upp í "flókinni mynd". Samkvæmt greininni eiga flækjurnar sér þrjár orsakir frelsisbaráttu þriðjaheimsríkja, nýrri tegund vopna og síðast en ekki síst í einhverju dulrænu tvíeðli Sovétríkjanna, þar sem þau eru samkvæmt greininni hvort tveggja í senn byltingar- og gagnbyltingarsinnað ríki.

Ekki verður hér fjallað frekar um fyrstu orsökina sem tilgreind er fyrir þessari flækju trótskista. Um hvort tegund vopna skipti sköpum um lögmálsbundið eðli heimsvaldastefnunnar og innbyrðis baráttu hennar verður heldur ekki fjölyrt hér, enda sú kenning vægast sagt spaugileg viðbót við "marxismann". Hins vegar er þriðja atriðið vel þess virði að því séu gefnar nánari gætur, ekki síst með tilliti til hvaða lærdóma allt sæmilegt fólk sem berjast vill gegn heimsvaldastefnu og stríðsundirbúningi, getur af henni dregið um þennan hóp sem kallar sig kommúnista. Látum Neista tala:

Umfjöllunin hefst á því að sagt er að "byltingarsinnaðir marxistar hafi alltaf tekið afstöðu með verkalýðsríkjunum á átökum þeirra við heimsvaldastefnuna" og "Þótt við verjum með þessum hætti verkalýðsríkin gegn ágangi heimsvaldastefnunnar þýðir það ekki að við styðjum gagnbyltingarsinnað skrifræði þessara ríkja. Þvert á móti felur vörn verkalýðsríkjanna í sér óvæga baráttu gegn skrifræðinu. Það er t.d. augljóst að sovéska skrifræðið er bæði ógnun við heimsbyltinguna og áframhaldandi tilvist Sovétríkjanna sem verkalýðsríkis."

Þá höfum við það, svona geta ríki verið hvort tveggja í senn byltingar- og gagnbyltingarsinnuð. Nú á vígbúnaðarkapphlaup stórveldanna sér ekki lengur skýringu í hlutlægum efnahagslögmálum, heldur annars vegar í græðgi bandarísku heimsvaldastefnunnar og hins vegar í "vörn" gagnbyltingarsinnaðs "skrifræðis" fyrir málstað byltingarinnar. Að auki er þetta "skrifræði" fyrsti valdahópur ríkis í mannkynssögunni sem ekki er stétt samkvæmt þessari nýju viðbót byltingarmannanna í Fylkingunni við marxismann. Afleiðing af þessari speki verður sú að samkeppni risaveldanna um áhrif í þriðja heiminum er skýrð sem "barátta gegn heimsvaldastefnunni". Á sama hátt fylgir þessari kenningu, að flokka verður alþýðustríð í góð og vond. Þannig verður baráttan í El Salvador gegn bandarísku heimsvaldastefnunni af hinu góða, en barátta alþýðu Afganistan gegn sovésku heimsvaldastefnunni eins og í munni "skrifræðisins" í Moskvu, gagnbyltingarsinnuð eða afturhaldssöm.

Rúsínan í pylsuendanum er svo að stríðshættan og vígbúnaðarkapphlaup resaveldanna verður að "átökum verkalýðs og auðvalds á heimsmarkaði". Þannig prjóna þessir "byltingarsinnuðu marxistar" áfram og Friðarhreyfingin sem nú er risin á Vesturlöndum verður af hinu góða og þess virði að efla, ef hún beinist eingöngu að bandarískum vígbúnaði, þegar hún snýr sér að báðum risaveldunum er hún væntanlega orðin "verkalýðsfjandsamleg og gagnbyltingarsinnuð", eða hvað? Var einhver að tala um moðhausakenningu?

KrKa.

Lausasala: kr. 5,00
Ársáskrift: kr. 60,00
Ársstuðningsáskr.: kr. 120,00
Ársáskr. til útl.: kr. 120,00

Verkalýðsblaðið

10.tbl. 10.árg. 27.11.1981

# Framlag Maós

5 ár frá andláti Maos.

Nú fyrir skömmu voru liðin 5 ár frá andláti Mao Zedongs. Það fer því vel á því að fjalla hér nokkuð nánar um framlag þessa mikla marx-leninista til byltingarfræða kommúnista í framhaldi af grein minni í 7.-8. tbl. Vbl. þar sem ég lagði einmitt áherslu á að nema beri hið byltingarsinnaða inntak í kenningum Maos.

## Kínverska byltingin og Moskva

Allar byltingar hafa sín séreinkenni, þ.á.m. kínverska byltingin. Í mörgum mikilvægum atriðum var hún frábrugðin byltingunni í Rúslandi. Kínverskir kommúnistar urðu því að beita marx-lenínismanum sem lifandi byltingaraðferð og heimsskoðun og tengja hann byltingarbaráttunni í Kína.
Hrár innflutningur á baráttuaðferðum erlendis frá reyndist óhæfur til að leiða kínversku byltinguna inn á sigurbraut. Sérstaklega kom þetta vel fram í upphafi baráttu kommúnista í Kína þegar þeir sóttu fyrirmæli og byltingarfyrirmynd sína að mestu leyti til Moskvu. Hugmyndir Stalíns og Komintern reyndust ákaflega misjafnlega og voru oft í andstöðu við raunverulegar þarfi byltingarhreyfingarinnar. Þær áttu m.a. sinn þátt í því hversu illa fulltrúar stórborgara og hernaðarfursta Kuomintang gátu leikið kommúnistana 1927 og næstu ár á eftir. Þá voru hugmyndir og athugasemdir Trotskys um kínversku byltinguna þaðan af síður í samræmi við aðstæður þar.

Kínverskir kommúnistar urðu því að kasta frá sér kreddufestunni og þreifa sig sjálfir áfram til að móta baráttuaðferðir og stjórnlist kínversku byltingarinnar. Í því byggðu þeir á reynslu öreiga í öðrum löndum og beittu vísindalegum aðferðum marx-leninsmans.

Allar miklar byltingar hafa skapað mikla leiðtoga. Það kom í hlut Mao Zedongs að þróa marx-lenínismann, tengja hann kínverskum aðstæðum og leiða byltinguna til sigurs. Að sjálfsögðu var hér ekki um að ræða einhverjar "bráðsnjallar hugmyndir" einstaklings, heldur endurspegluðu kenningar Maos meðvitað þarfir og markmið byltingarbaráttu milljóna kínverskra öreiga og bænda og byggðu á byltingarstarfi og rannsóknum stórs hóps kínverskra kommúnista sem störfuðu með Mao.

Meðal þess sem er nýtt í kenningum Maos og verður að teljast þróun á marx-leninismanum má nefna:
Í fyrsta lagi kenningar Maos um nýlýðræði og nýlýðræðisbyltingu.

Með þeirri kenningu sýnir Mao fram á að hvaða leyti lýðræðisbyltingin í Kína hlýtur að vera annars eðlis en lýðræðisbyltingar fyrri tíma í Evrópu og víðar. Vegna þess að henni er beint gegn heimsvaldastefnu þá tengist hún byltingarbaráttu öreiga auðvaldslandanna og sósíalismanum sterkum böndum. Í þessu fólst líka mikilvægi nýs mats á byltingaröflum í Kína og tengslum bændastéttarinnar við verkalýðsstéttina í baráttunni gegn sameiginlegum óvini, heimsvaldastefnu og leyfum lénsveldis.
Í öðru lagi um sósíalíska byltingu og sósíalíska uppbyggingu.

Í framkvæmd sósíalískrar byltingar mættu kínverskir kommúnistar ýmsum nýjum vandamálum sem þeir urðu að leysa úr. Má þar nefna hvernig sósíalísk iðnvæðing í Kína er tengd sósíalískri umbreytingu þjóðfélagsins og hvernig einkaauðmagn er smám saman þjóðnýtt með því að kaupa þjóðlegu kapitalistana út úr fyrirtækjunum. Einnig eru kenningar Maos um sambandið milli þróunar sveita og borga, léttiðnaðar og þungaiðnaðar, líkamlegrar vinnu og andlegrar ákaflega mikilvægar. Kenningarnar um áframhald stéttabaráttu í sósíalisma og um samtvinnun lýðræðis fyrir alþýðuna og alræðis gagnvart afturhaldssinnum eru sömuleiðis mikilvæg þróun kenninga marx-leninisman um ríkisvald öreiganna.
Í þriðja lagi að því er varðar byltingarher og herstjórn.

Undir leiðsögn Maos var mótuð sú herstjórnarlist skæruhernaðar sem gerði kommúnistum kleift að standa hvert áhlaup herja afturhaldsins á fætur öðru og vinna sigur á hernaðarlega mun öflugri herjum. Auk kínverskra kommúnista hafa skæruliðar í mörgum löndum beitt baráttuaðferðum Maos með góðum árangri, t.d. í Víetnam. Þá hefur hin mikla áhersla sem Mao lagði á tengsl hersins við alþýðun og þátttöku hersins í sósíalískri uppbyggingu gefið mjög góða raun.
Í fjórða lagi um pólitík og baráttuaðferðir.

Á því sviði hefur KFK undir leiðsögn Maos sýnt mikla leikni. Kemur það m.a. fram í því hvernig kommúnistar líta niður á andstæðing sinn frá langtímasjónarmiði, en taka hann alvarlega í hinni daglegu baráttu, sameina hina mörgu til að berjast gegn og einangra verstu fjandmenn alþýðunnar hvern á fætur öðrum, greina skýrt höfuðmarkmið baráttunnar frá smærri síður mikilvægum málum o.s.frv. Þessi einkenni koma sérstaklega greinilega fram í samfylkingarpólitík KFK.
Í fimmta lagi um hugmyndafræði, pólitískt starf og menningarstarf.

Á því sviði þróar Mao áfram kenningar marx-leninismans um samspil efnahagsgrundvallar sérhvers þjóðfélags og menningar þess. Menning og yfirbygging ákveðins þjóðfélags sé ekki einföld endurspeglun framleiðsluhátta þess heldur geti hún haft afgerandi áhrif á þá. Hann dró fram mikilvægi hugmyndafræðilegs og pólitísks náms tengdu þjóðfélagslegu starfi og að spurningin "fyrir hverja" er grundvallarspurning sem hafa verður til leiðbeiningar í starfi kommúnista.
Í sjötta lagi lagði Mao töluvert af mörkum til þróunar kenninga marx-leninismans um flokksstarf, enda æðsti leiðtogi fjölmennasta kommúnistaflokks



veraldar.

Flokksbygging í Kína var sérstaklega erfið þar sem öreigastéttin var tiltölulega fámenn og lítt þroskuð og stór hluti flokksstarfsins fór fram til sveita meðal bænda. Mao lagði því mikla áherslu á stöðuga baráttu gegn hugmyndum sem ekki voru af verkalýðsuppruna eða voru andstæðar verkalýðnum. Mao beitti díalektískri og sögulegri efnishyggju til að skilja þróun kommúnistaflokksins fyrir áhrif baráttu innri mótsetninga og birtist í átökum tveggja stefna , varpar nýju ljósi á alla sögu kommúniskrar hreyfingar Jafnframt er þessi kenning grundvöllur fyrir alla byltingarbaráttuna. Hún getur verið beitt vopn í baráttunni gegn hvers kyns skrifræði sem flokkurinn hneigist til.

Að sjálfsögðu er hér að framan einungis imprað yfirborðslega á helstu atriðum sem Mao auðgaði marx-leninismann að. Þótt ég hafi skipt þeim upp í 6 hluta ber að hafa í huga að innbyrðis tengjast öll þessi atriði (og fleiri) og mynda eina heild. Þótt sundurliðun sé ágæt til glöggvunar, þá má ekki ganga svo langt að einhverjar ákveðnar kenningar séu teknar út úr og skoðaðar samhengislaust. Slíkt væri hrein og klár fölsun.

Ég vil benda félögum Kommúnistasamtakanna og öðrum íslenskum byltingarsinnum á að kynna sér nánar verk Maos um framangreind atriði, en slíta þau þá ekki úr samhengi við það ástand sem ríkti í Kína á tímanum sem þau voru skrifuð á, né úr samhengi við hvert annað.

# ÁLYKTUN

Rvík 19.nóv.

Smánarblettur á verkalýðshreyfingunni, slík verður minning svokallaðs samkomulags milli ASÍ og VSÍ sem 20 forystumenn Alþýðusambandsins skrifuðu undir aðfararnótt laugardags, 14. nóvember. Ekki svo að skilja, að á einhverju slíku væri ekki von. Alþýða þessa lands veit það nú þegar að forystumenn Alþýðusambandsins meta meir stjórnmálalega hagsmuni þingræðisflokkanna en stéttarlega lífshagsmuni umbjóðenda sinna. Stjórn Kommúnistasamtakanna hvetur félagsmenn verkalýðshreyfingarinnar að fjölmenna á félagsfundi og fella þetta niðurlægingarsamkomulag.

Félag Bókagerðarmanna á nú í harðvítugri vinnudeilu við atvinnurekendur. Samningur ASÍ og VSÍ hlítur að vera sem hnífsstunga í bak bókagerðarmanna.

Bókagerðarmenn eiga vísan stuðning Kommúnistasamtakanna og allrar stéttvísrar alþýðu í landinu. Það má ekki verða, að félag þeirra kikni undan atvinnurekendavaldinu vegna skorts á stuðningi annara verkalýðsfélaga.

Barátta fyrir bættum kjörum er eina færa leiðin ef takast á að rétta hlut alþýðunnar í þessu landi. Undansláttar "samningur" ASÍ og VSÍ kennir fólki að það verður að treysta á sjálft sig og hafna forræði þingræðisflokkanna ef blása á til þeirrar baráttu.

Stjórn Kommúnistasamtakanna.

# Borgið gjöldin ykkar!

Sæmilega hefur gengið að innheimta áskriftargjöldin fyrir 1981 hér á Reykjavíkur svæðinu. Áskrifendur úti á landi hafa hins vegar verið fullseinir á sér og hafa nú fengið rukkunarbréf í tvígang. Við bendum á að upphæðin 60 krónur er svo lág að það tekur því varla að vera að draga að borga hana, enda fyrirhöfn ykkar við að borga hana söm í nóvember og í janúar.

Lokaátakið í rukkun á Stór-Reykjavíkursvæðinu fer fram í þessum mánuði. Fyrst koma rukkarar og banka og berja utan hús ykkar, hringja reyndar dyrabjöllum þar sem þær eru vel merktar. Ef þið eruð ekki heima er ykkur sendur gíróseðill eða einhver önnur áminning. Ef allt um þrýtur er hætt að senda ykkur blaðið, og hefur það nú gerst við marga þeirra sem skulda ennþá árið 1980. Þetta er hins vegar síðasta bláðið sem nokkur slíkur fær - nema þá okkur verði á mistök.

Áskrifendur: Bregðist vel við, verið heima og borgið rukkaranum sem kemur í heimsókn, eða inn á gíróreikninginn okkar hjá Póstgíróstofunni, nr.12200-9.
Það er hægt að gera í hvaða banka eða sparisjóði sem vera skal.

Rukkunarstjóri.

PS. Enn er pláss fyrir sjálfboðaliða við rukkunina. Leggið nafn og heimilisfang í Pósthólf 5186, 125 Reykjavík eða hringið í síma 29212 milli kl. 11 og 15 á laugardögum.

Sami.